**Stutt og skiljanleg lýsing fjárkláðans** og meðferðarinnar á honum; samin af dýralæknunum C. Jensen, I. Th. Hansteen og T. Finnbogasyni.

Áður enn vèr sèrstaklega útlistum meðferð fjárkláðans, þykir oss hæfa, að fara nokkrum orðum um hann yfir höfuð.

Kláði telst meðal hinna lángvinnu hörunds veikinda, sem brunasótt ekki fylgir, og orsakast af tímgun maurs þess, sem honum er eiginlegur (kláðalús), er aðskilur hann frá mörgum hörundsveikindum, sem fyrrum hefir verið slengt saman við hann. Öll húsdýr vor eru undirorpin kláða, og hjá sèrhverri tegund þeirra finnst kláðalús, sem henni út af fyrir sig er eiginleg, og elur sýkina til fullnustu einúngis á henni, en

sýkin batnar þá allsjaldan af sjálfu sèr. Stöðug væta og saggi, vond og óhrein hús, slæmt fóður, fóðurskortur, eða með öðrum orðum, vondt viðurværi og meðferð yfir höfuð hjálpa til að kveikja kláðalúsina. Þegar hún á annað borð er kviknuð, æxlar hún kyn sitt mikið fljótt og leggur eggjum, en viðkoman er fjarska mikil, og getur hún nú flutst af einni skepnu á aðra, og þannig komið útbreiðslu sýkinnar af stað. Kláðalúsin verkar fiðríng í hörundinu en fiðríngurinn leiðir út úr því vessa líkan eggjahvítu, og myndast hèr af bólur, skorpur og hrúðrar.

Til þess að hepta kláðasýki, er nauðsynlegt að hindra samgaungu sjúkra og heilbrigðra skepna svo sem unnt er, beita meðölum, sem drepa kláðalúsina og styðja að lækníngunni með góðu viðurværi.

Sauðfjárkláði er lángtum áríðameiri

enn kláði á öðrum húsdýrum, sem haldið er einstaklegar hverju fyrir sig, ekki eingaungu af því, að sauðfè gengur í hópum, og sóttnæmið á þannig hægra með að grípa um sig, heldur líka sökum þess, að hann rírir ullina bæði að vöxtum og gæðum, auk þess sem hann dregur bæði úr mjólk og kjöti.

Orsakir sýkinnar. Sauðfè í öllum löndum og af öllum tegundum er meðtækilegt fyrir kláða; en þó virðist það einkum eiga sèr stað með fè það, sem hefir smágjörva ull (finuldede Faar), Kaldt og vott haglendi, sèrílagi þar sem jörð er ófrjóf og óræktuð, eru kríngumstæður, sem auðveldast koma honum á stað. Hafi einhver sauðahjörð um lengri tíma haft litla og vonda fæðu, t. d. skemmt hey, og sè henni þar að auki þrýst saman í heit, dymm, rakasöm og óhrein hús, sem vanta loptsúg, eptir að

hún að haustinu hefir orðið að þola kulda og votviðri og þess vegna er orðin mögur og innanveik, þá eru allar lífskríngumstæður fjárins hinar hagkvæmustu fyrir þroska og útbreiðslu sýkinnar.

Þeir sjúkdóms-vessar, sem slá út úr dýrinu undir þessum kríngumstæðum, gefa hláðalúsinni ríkuglega næríngu, og styðja freklega að tímgun hennar; og sè kláðasýkin þannig uppkomin á þvílíku fè, breiðist hún auðveldlega út frá einni skepnu til annarar fyrir sóttnæmi, og frá hjörð til hjarðar, ef henni eru engin takmörk sett með lækníngatilraunum. Við þessu er ekki nærri eins hætt, þar sem sauðfè er vel haldið með fóðri og við góða krapta, því þá stendur það lengi móti sóttnæminu, og getur þvílíku fè batnað jafnvel af sjálfu sèr, þó sýkin komi upp meðal þess, ellegar hún lætur auðveldlega undan lækníngatilraunum,

Líkamsbyggíngin (Organismen) verst því, undir svo heppilegum kríngumstæðum, miklu betur fyrir útbreiðslu sýkinnar, og þarf ekki að kvíða því, að kláðinn brjótist aptur út á þvílíkri hjörð, nema hann komi fyrir sóttnæmi; en þar sóttnæmi getur útbreiðst á margan hátt, t. d. með skinnum og ullu af kláðafè, og ein kláðakind getur mengað heila hjörð, hlýtur sèrhverr bóndi í þessu tilliti að veita fè sínu hina nákvæmustu eptirtekt. Fjárkláðalúsin, sem, eins og að framan er um getið, er hin næsta orsök sýkinnar, getur sjest með berum augum; hún er gljáandi, hvít, næstum hnöttótt, og hefir opt liðótta riðleita fætur, útbúna með festiblöðkum (Hefteblade) en sumstaðar með hárum, og má sjá þetta í góðu stækkunargleri.

Kennimerki. Hin fyrstu kláðamerki í hjörðinni eru þau, að dýrin núa sèr upp

við girðíngar, jötur, steina, moldarbakka og þesskonar uppstandandi hluti, eða þau klóra sèr með hornum, tönnum eða klaufum, og óhreinka ullina á seinastnefndan hátt. Sè þeim klórað, láta þau ánægju sína í ljósi með því að bæra varirnar, stappa fótum, og teygja höfuðið fram og aptur. Þegar dýrið klórar sèr, losna fleiri ullarlagðar á því og standa útúr yfirborði ullarkápunnar, eru þeir að lit optast ljósleitari enn kápan sjálf. Til þess að vera þess fullviss, að sýkin sè kláði, en ekki annar hörundsútsláttur, þarf nákvæmlega að rannsaka dýrin. Skal þá taka húðina milli fíngranna á þeim stöðum, hvar þau klæar, og finnst þá í byrjun sjúkdómsins lítill takmarkaður hnútur, nokkuð harður og viðkvæmur, og í honum klæar dýrið ákaft. Þegar ullin er greidd sundur á þessum stað, finnast smáhnappar á baunarstærð og á þeim blöðrumyndaðar ból-

ur fullar af hvítum eða optar bleikgulum vog, sem á veikluðum skepnum stundum hefir grænleitan blæ. Sèu bólurnar sprúngnar, sem ekki líður á laungu, finnast í stað þeirra smáskorpur. Í kríngum hnappana finnast nú kláðalýsnar, og sýna þær sig á rauðri húðinni sem litlir hvítir hnettir. Þar sem fleiri lýs eru, fiðrar húðina af stíngjum þeirra, og verður hún þá þakin smáblöðrum, sem í fyrstunni eru fullar af vessa líkum eggjahvítu, er bráðum verður að útliti sem gröftur. Þessar blöðrur springa á stuttum tíma, og holdrosinn, sem við það missir hárraminn, heldur áfram að gefa frá sèr þunnan gröft, sem er fæða lúsarinnar á meðan hann er fljótandi, en þegar hann storknar og er orðinn að þurri skorpu, flytur lúsin sig á hina næst liggjandi heilbrigðu húð. Á þenna hátt koma fram skorpurnar, og geta þær orðið töluverdt þykkvar og stórar

um sig og ýmislegar að útliti, því stundum eru þær gulleitar, stundum gráhvítar, stundum þunnar og harðar, stundum þykkvar og linar, og liggja þá stundum undir þeim kýli, sem brjótast út. og gefa frá sèr nokkuð þykkan optast gulleitan gröft. Þunnar eru skorpurnar sèrílagi á mögru fè, en hinar þykkri koma helzt fyrir á feitum og kröptugum skepnum; en að öðru leyti á veðurátta, fjárkyn og kynferði einnig nokkurn þátt að þessu. Undir skorpunum eru sárafletirnir stundum samanhángandi og minni um sig, allt eptir eðli kláðans, og verður opt húðin á kláðastöðunum lángtum þykkri og stinnari enn á heilbrigðum skepnum, en sú breytíng fer smátt og smátt þegar kláðinn er læknaður.

Þeir staðir, sem kláðinn venjulega sýnir sig fyrst á, er herðakamburinn, lærin og hriggurinn, þó ber það ekki sjaldan við, að

hann kemur fyrst aptan í lærin og fyrir framan júfrið.

Þegar kláðinn eykst óðum, sèr í lagi á haust og vetur, missa dýrin opt talsverða leppa úr kápunni, og er þetta optastnær það, er gjörir eiganda varan við, að sýkin er komin í hjörð hans, þar sauðfè um þetta leyti árs almennt er haft við hús.

Framferði sýkinnar. Skepnan getur verið með kláða um lengri tíma, án þess tekið verði eptir nokkurri sèrlegri verkun á vellíðun dýrsins, en ef sýkin er látin sjálfráð, getur hún breidt sig út frá hinum veiku stöðum yfir mestallan kroppinn, jafnvel til fótanna og klaufanna. Sè sýkinni svo lángt komið, gefur sú breytíng, sem húðin og kirtlarnir undir henni líða, er þau þykkna og harðna, og hin iðuglega óværð, sem kláðinn verkar, tilefni til óþrifa og máttleysis, sem verður að lúngnaveiki, vatnssýki

og öðrum innanmeinum og endar með dauða skepnunnar.

Meðferð sýkinnar. Einkar áríðandi í meðferð fjárkláðans er gott viðurværi (diætetisk Pleie), því það stendur á móti útbreiðslu sýkinnar, léttir lækníngu hennar og varnar því, að hún komi aptur af sjálfri sèr. Til að koma í veg fyrir að sýkin breiðist út í hjörðunum, verður að aðskilja sjúkt og heilbrigðt fè, og á þeim árstímum, sem fè gengur úti, hlífa því sem framast er unnt við þeim kríngumstæðum, sem helzt styðja að viðgángi og útbreiðslu kláðans, nefnilega votu og súru haglendi, miklum rigníngum og kulda; verður, þegar svo stendur á, og kríngumstæður leyfa, helzt að halda því við gjöf. Hvað ásigkomulag húsanna snertir, hljóta þau að vera mátulega stór, fyrir fjárfjölda þann, er í þeim skal byrgja, og eiga þau þarhjá að hafa nægan loptsúg og

birtu. Sè gömul hús notuð, sem sjúkt fè hefir í verið, verður að hreinsa þau vandlega með þeim meðölum, sem áreiðanlegt er að drepa kláðalúsina, svo sem með því að svíða húsin að innan t. d. með heyi, svo að loginn nái nógu lángt upp eptir veggjunum. Allt trèkyns skal annaðhvort tjarga, áðurenn það er aptur brúkað, eður draga yfir það uppleyst kalk, þvo það í brennheitri öskulút, eða uppleystu klórkalki (1 ℔ af klórkalki í 6 pottum vatns). Gildir slík hreinsun ekki einúngis fjárhús, heldur líka kvíar, bæði fastar og færikvíar, skal svíða hinar föstu sem húsin, en færikvíar flytja úr stað og meðhöndla sem áður segir um húsviðu. Það, sem enn fremur er sèrlega hættulegt fyrir útbreiðslu sóttnæmisins og þarf varkárlegrar meðferðar, er skinn og ull af kláðafè; skal þetta, strax sem það er tekið af dýrinu, leggja í sterka öskulút í 2

daga. Á öskuna sè hellt vatni sjóðanda, og látið standa sólarhríng; þá er askan síuð frá og skinnin lögð í lútina hreina. Sè hið walziska kláðameðal fyrir hendi, má leggja bæði ull og skinn í það, og þarf þá ekki áð óttast fyrir útbreiðslu sóttnæmisins af þeim hlutum.

Lækníng kláðasýkinnar útheimtir meðöl, sem megna að drepa kláðalúsina, og er það hinn verulegasti og öldúngis nauðsynlegur skilmáli fyrir lækníngu hennar. Af þeim meðölum, sem bæði eru megnug um að stöðva sýkina, og þar hjá kosta lítið, eru auðveld meðferðar og ekki hættuleg fyrir heilbrigði dýranna yfir höfuð, ber að taka fram þessi:

Hið walziska kláðameðal, sem, vel til búið og eins og það nú fæst á lyfjabúðinni hefir um lánga áraröð sýnt sig sem sèrlega gott meðal til að lækna kláðann,

hreinsa húðina fyrir væríngu, án þess að hafa neina skaðlega verkun á dýrin eða ullina, sem einmitt vex en rírnar ekki við það, ber sèr í lagi að nefna, þegar kríngumstæðurnar heimta, að fè sè baðað í allri ullu, og ber það því fremur að tilgreina, sem það er svo ódýrt, að þó næstum þurfi tvöfaldt af því, þegar baðað er í alullu, getur það þó engan veginn heitið kostnaðarsamt.

Meðalið er samsett af þessum pörtum:

| | | |
|---|---|---|
| af frísku brendu (stein-)kalki | 4 ℔, eða | |
| - vættu kalki . . . . . | 12 ℔ | |
| - pottösku . . . . . | 5 ℔ | |
| - tjöru . . . . . . | 4 ℔ | |
| - hjartarhornsolíu . . . | 6 ℔ | |

þetta skal því næst þynna með kúahlandi . . . . . . . 100 pottum
vatni . . . . . . . . 400 —

þetta verður nægilegt það handa 500 rúins fjár, en að eins handa 300 í alullu.

5 ℔ 6 lóð af meðalinu, eins og það fæst á lyfjabúðinni, skal þynna með 20 pottum kúahlands og 80 pottum vatns, og nægir það bað fyrir 100 rúins fjár, en 60 í alullu. Sem nauðsynlegan skilmála fyrir því, að baðið hafi áreiðanlega verkun, verður að taka fram, að allar skorpur sè vel bleyttar upp, annaðhvort með grænsápu, eða með smýrslum af jöfnum pörtum terpentínolíu, tjöru og grænsápu, sem borin er á 2 eða 3 dögum áður baðað sè; í baðinu skal núa vel þá staði, sem á hefir verið borið, og sè skorpurnar þykkar og fastar, má brúka sljóft verkfæri til að rífa þær upp og ná þeim burt.

Hin Tessíersku böð eru eflaust hin kröptugustu og áreiðanlegustu kláðameðöl, sem vèr höfum ráð á, en þar brúkun þeirra

við sauðfè í alullu er miður hagkvæm sökum þess, að ullin verður af þeim gul og snörp, ætlum vèr að það meðal ætti ekki við að hafa fyrri enn að vorinu, þegar fè er farið úr ullu, því síður sem hið sjúka fè nú í haust og á komanda vetri mundi þola það vel. Meðalið er tilbúið af

Arseniki . . . . 4 ℔
Járnvitríóli . . . 40 ℔
Járntveilts . . . $1\frac{1}{5}$ ℔
mulinni Gentianrót $\frac{4}{5}$ ℔

af þessari samsetníngu takast 23 ℔ til 100 potta af vatni, og er það soðið í 8—10 mínútur, og er þá meðalið brúkað á sama hátt sem hið walziska, með þeirri undantekníngu, að júfrið verður að maka með feiti, áður baðað sè, til að koma í veg fyrir afrifur (Irritation) þær, sem það annars verkar á hinni þunnu og smágjörvu húð. Varkárni ræður til, að þeir sem baða, einn-

ig maki höndur sínar í feiti. Þessum böðum hefir með mestu heppni verið beitt við gamlan inngróinn kláða, og skal hèr geta mikilfengrar tilraunar, er þeir gjörðu prófessor Delafond og doktor Bourguignon.

36000 fjár á ýmsum aldri og af ýmsu kynferði var þvegið í þessum legi, og urðu 35,963 kindur á stuttum tíma albata og sýktust ekki aptur, en 37 dóu af tæríngu og öðrum innan meinum, en engin kind af sjálfu baðinu.

Hið arseniksúra kalí, sem fyrst nýlega er komið í tíðkun, má einnig nefna sem ágætt meðal við allsnakið fè, þegar það verður núið vel inn í húðina, en lukkast torveldlega þegar fè er í ullu. Meðalið skal tilbúa á lyfjabúðinni, eins og hin áðurnefndu, og er samsett af

Arseniki 2 pörtum
pottösku 1 parti.

er þetta soðið í svo miklu af vatni, sem það getur vel runnið í. Blandan er nú of sterk, og verður því að þynna hana, áður brúkuð sè, með svo miklu af vatni, sem læknisávísanin (Recepten) tiltekur.

Kláðasmyrslin, sem einúngis eru ætluð til að maka kláðastaðina með, eru að mestu leyti samansett af sömu efnum sem legirnir (orm- eða lúsdrepandi meðöl); en þar brúkun þeirra er yfirgripsminni enn lauganna, meiga þau, án þess að verða dýrunum að meini, vera lángtum sterkari (efnum þeirra minna dreift) enn böðin, enda hafa þau optast í sèr efni, sem bleyta og uppleysa kláðahrúðrin. Hafi þau ekki í sèr þvílík efni, verður fyrst að uppleysa hrúðrin t. d. með grænsápu, eptir það búið er að ná af þeim ullinni; verður verkan þeirra þannig áreiðanlegri og kröptugri. Meðal hinna mörgu kláðasmyrsla skal hèr nefna

þau, sem í öllu tilliti má álíta hagfeldust og sem reynslan hefir borið vitni um;

Nr. 1. Tak: terpentínolíu 1 part
tjöru . . . 1 —
grænsápu . 1 —

blanda saman yfir hægri glóð; hin þannig tilbúnu smyrsli eru sæmilega linger, hægt að koma þeim við, og læsa þau sig fljótt inn í hrúðrin.

Nr. 2. Abildgaards og Viborgs kláðasmyrsli
Tak: brennisteinsblóm 3 parta
hampolíu . . 16 —

hrær í þessu yfir eldi uns brennisteininn er uppleystur, og lát svo þar í
mulið álún 3 parta
terpentínolíu 1 —

hrær svo í, uns kaldt er.

Nr. 3. Tak: hjartarhornsolíu 1 part
tjöru . . . 1 —

grænsápu . . 2 parta

hrær saman yfir hægum eldi.

Nr. 4. Vandels kláðasmyrsli.

Tak: tjöru . . 2 parta
saltað smjör 1 —
pottösku . 1 —

tjaran og smjörið bræðist saman; þá er pottaskan í látin og hært í uns kaldt er.

Nr. 5. Tak: terpentínolíu 1 part
nýtt smjör 1 —

þegar kláðinn er votur, þá lát í 1 ℔ af þessu
1 lóð af muldum blásteini

sem hrærist vel saman við hitt efnið.

Nr. 6. Tak: grænsápu . . . 2 parta
tjöru . . . . 1 —
gljáandi sót (runnið sót) 1 —

hrær vel saman yfir eldi.

Nr. 7. Tóbaksseyði við kláða

Tak: almennilegt tóbak 1 ℔
vatn . . . . 9 potta

lát sjóða niður um þriðjúng, lát svo í hvern pott 4 lóð af blásteini.

Hvert fyrir sig af framan nefndum smyrslum getur brúkast eptir því sem kríngumstæðurnar leyfa; þó viljum vèr helzt mæla fram með smyrslunum Nr. 1., er hafa reynzt ágætt og kröptugt meðal.

Böðunaraðferðiu. Svo að hægt verði að baða án þess að ofmikið fari til spillis af lauginni, verður baðkerhaldið að vera mátulega stórt og vel lagað. Lengd þess má vera 7 kvartil, breiddin að ofan 5 kvartil, í botninn þar á móti 3 kvartil, dýptin 5 kvartil. Kerhald það, sem dýrin eru látin í, þegar þau koma úr baðinu, skal vera líkt að stærð, en þarf ekki að vera eins djúpt.

Ef baðkeröld vanta, má vel nota bát, ef fyrir hendi er. Báturinn sè reistur nokkuð í annan endan, svo að laugin safn-

ist í hinn, og nú frammfer böðunin þannig: Fènu sè haldið í hóp nálægt baðkerhaldinu, taki svo tveir menn hverja skepnu, annar um höfuð og framfætur, hinn um malir og apturfætur, og dýfi henni með bakið niður á við, svo djúpt í baðkerbaldið, að höfuðið eitt standi upp úr lauginni, svo að lögurinn ekki skaði eyru, nasir eða augu. Meðan baðað er, skal núa skorpurnar, uns meðalið gengur gegnum þær, og falla þær þá auðveldlega af. Þegar þetta er búið, er kindin látin yfir í hið tóma kerhald og skal þar í renna lút sú er í ullinni hángir, og kreystir maður ullina upp við kropp dýrssins. Sè bátur brúkaður, færist skepnan úr baðinu upp í hærri enda hans og flýtur þá lútin, sem undin er úr ullinni niður í neðri endann á bátuum. 6 manns geta á þenna hátt baðað 4—600 fjár á dag, 400 þegar það er í alullu, en 600 rúins

fjár, og er lækníngin auðveldari undir síðarnefndum kríngumstæðum. Böðunin skal framfara, ef kostur er á, í góðu veðri, og böðin, sem eiga að vera volg, hafa þá fyrst fullkomna verkun, en fèð hefir þá ekki illt af baðinu, Ef veður er slæmt verður að láta skepnurnar í rúmgott hús til að þorna og er hèr við enn fremur að athuga, að nóg hey sè breidt á gólfið, og tekið burtu jafnótt og dignar, svo ekki standi af því óhollur daun og raki í húsinu.

Kláðafè sè baðað fyrst tvisvar með 8—10 daga millibili, og þegar 14 dagar eru liðnir frá öðru baði, skal rannsaka hjörðina nákvæmlega og finnist þá kláðabólur, skal baða í 3. sinn. Að skepnurnar klóra sèr, og að meira ber á hrúðrunum eptir baðið, er optast nær merki þess, að sýkin læknast, en ekki, eins og menn hèr almennt halda, röksemd fyrir því, að sýkin sè ó-

læknandi, því kláði sá, sem vart verður við nokkru eptir baðið kemur sumpart af fiðríngi í húðinni sumpart af því, að ör eru að myndast af sárum þeim, er undir skorpunum voru. Að meira ber á hrúðrunum eptir baðið kemur af því að þær hafa losast við húðina og færst út í ullina.

Kjötið af kláðafé má borða, án skaða fyrir heilsuna, ef skepnan var ekki útsteypt yfir mestallan kroppinn, og ekki orðin skínhoruð, því undir þessum kríngumstæðum skyldi það ekki hafa til manneldis.

Reykjavík, 14. október 1857.

---

Í prentsmiðju Íslands 1857. E. Þórðarson.

